Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Ert þú áskrifandi að vikublaði verkafólks?

Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

3. tölublað | Þriðjudagur 16.1.1979 | 8. árgangur | verð kr. 100.-

# Kauphækkun - en misrétti áfram

Verkfall starfsstúlkna við sjúkrahúsið á Akranesi varð stutt en skilaði þó meiri árangri en mörg önnur. Aðeins náðist fram helmingur þeirra krafna sem fram voru settar. Orsakir þess að ekki náðist meira, eru margþættar. Ekki hefur heyrst eitt einasta stuðningsorð af hálfu ASÍ, BSRB, eða nokkurs annars verkalýðsfélags. Sú kauphækkun sem náðist er erfiður biti að kyngja fyrir bæjarfélagið. Líklega er rétt metið hjá konunum að meira hefði ekki náðst fram í einu án harðrar baráttu, en hví ekki að beita meiri hörku?

Víkjum að því seinna en snúum okkur fyrst að samkomulaginu.

Kröfur starfsstúlknanna voru um sömu laun og réttindi og bæjarstarfsmenn á lægsta taxta STAK, sem samsvarar 6. taxta BSRB. Segja má að um helmingur þessa hafi náðst

Krafist var um 23% grunnkaupshækkun en 11% náðust. Vaktaálag hækkar úr kr. 311 í kr. 370 og sérstakt næturvaktarálag kemur sem ekki var áður, kr. 505 á klst. Orlof STAK-manna varð allt að 10 dögum lengra, en starfsstúlkurnar fengu nú allt að 5 daga í lengingu. Veikindadögum fjölgar, eftir 1 ár er það 2 mán og eftir 4 ár kemst það í 4 mán.

Þetta er þó mun minna en hjá bæjarstarfsmönnum. Hvað fæðingarorlof snertir, þá mun atvinnuleysistryggingasjóður greiða hið sama og honum bar en sjúkrahúsið greiðir það sem á vantar til þess að fullt 3 mánaða fæðingarorlof fáist. Er þetta stór munur frá því sem áður var. 8% álag er á störf í þvottahúsi og ýmis konar námskeið geta veitt allt að 12% kauphækkun. Grunnkauphækkun í efsta starfsaldursþrepi er úr kr. 163þús í kr. 180 þús. Loks skal geta þess að starfsstúlkurnar fá nú sömu launauppbót í desember og bæjarstarfsmenn.

Samningur þessi var samþykktur af öllum viðkomandi starfsmönnum nema tveimur.

Undanþágurnar

20 konum var strax veitt undanþága til starfa og var ákveðið að vinna áfram á fæðingardeild og ellideild. Nauðsynlegt er að hafa í huga hverju sinni á hverjum verkfall bitnar. Oftast kemur það verst niður á atvinnurekendum sem missa gróðann meðan það varir. En stundum kemur það einnig niður á almenningi og þá þarf að haga undanþágum þannig að almenningur verði fyrir sem minnstum skakkaföllum án þess að broddinn dragi úr baráttunni.

Ef verkfallið hefði dregist á langinn hefði sjúkrahúsið eflaust útskrifað og sent heim alla þá sem mögulegt var og aðeins sinnt neyðarþjónustu. Sérstaklega hefði þetta komið illa niður á aðstandendum sjúkra gamalmenna, sem hefði verið skipað að taka þau inn á heimili sín og kannski orðið að fá frí úr vinnu til að geta annast þau. Mæður hefðu verið sendar mun fyrr heim af fæðingardeildinni. Þeim sem bíða eftir sjúkrahúsvist hefði bara verið sagt að bíða lengur, eða þeir mögulega verið sendir á annað sjúkrahús. Ekki hefði verið tekið við öðru en mjög bráðum tilvikum.

Aðstæðan væri hér vissuleg lega önnur ef verkfallið hefði náð til fleiri sjúkrahúsa, þá hefði t.d. ekki verið hægt að flytja fólk milli stofnana.

Hver er miskunnarlaus?

Áróðurinn sem beint er að fólki miðar að því að telja okkur trú um að starfsstúlkur sjúkrahúsa eigi að vinna illa launuð störf af einskærri hugsjónarmennsku. En starfsstúlkur eru bara venjulegt fólk sem hefur ekki efni á að borða hugsjónir í allan mat. Það sem þær gera í verkfalli er einfaldlega að neita að vinna fyrir þau lágu laun sem í boði eru.

Hins vegar er það ríkisvald

framhald á síðu 2

# Úr "félagsmálapakka" stjórnarflokkanna

Hjá félagsmálaráðherra liggja nú drög að frumvarpi um hækkun á útsvari.

Útsvar er sá hluti skatta sem rennur til sveitarfélaga og má þessi skattur nú nema 11% af launum en skal geta verið 12% eftir hækkunina, þ.e. 10% hækkun.

Það voru "alþýðuvinirnir" sem nú stýra Reykjavíkurborg sem fyrst báru fram þessa tillögu en síðan hafa þeir fengið til liðs við sig stjórn Sambands Íslenskra Sveitarfélaga. Þar var þessi tillaga samþykkt samhljóða en fulltrúi Seltjarnarness sat hjá, enda íhald sem nú leikur andstæðing aukinna álaga á almenning.

Það hefur sýnt sig að lítið er að marka loforð ríkisstjórnarinnar við ASÍ í desember síðastliðinn. Þá var verkafólki lofað ýmsum félagslegum umbótum ef fallið yrði frá 8% af þeim 14,2% sem koma áttu til launahækkana til þess að vega upp á móti þeirri kjaraskerðingu sem verkafólk hafði orðið fyrir vegna verðlagshækkana. Í þessum "félagsmálapakka" eins og stjórnarflokkarnir kölluðu loforð sín (enda farið að nálgast jól) var meðal annars lofað 2% skattalækkun. Þessi skattahækkun sveitarfélaganna kemur þess vegna þvert á loforð ríkisstjórnarinnar. En fáránlegasti hlutur inn við þessi lög er þó líklega greinargerðin með þeim. Þjóðviljinn veifar henni á forsíðu 16. jan. Þar segir að hækkun þessi hafi verið nauðsynleg vegna þeirrar verðbólgu sem geisar hér, en hún geri 11% skatt að 7,6% því hann sé jú borgaður ári eftir að teknanna var aflað. Ekki er það þó vegna þess að við höfum mikla verðbólgu núna fyrst í ár. Nei, hún hefur verið meiri. Þess vegna heldur þessi skýring ekki vatni. Þá hljótum við að spyrja hvað hefur breyst. Er óreglan kannski meiri eða eru tekjur borgarinnar af atvinnufyrirtækjum hlutfallslega minni? Bæði atriðin virðast passa ef að er gáð.

*Úr Fréttabréfi verkalýðsfélaganna í Vestmannaeyjum*

# Öryggismál sjómanna

Greinar um öryggismál sjómanna eru meðal efnis í síðasta Fréttabréfi verkalýðsfélaganna í Vestmannaeyjum. Fréttabréf þetta er eins og kunnugt er og komið hefur fram í Stéttabaráttunni gefið út af öllum verkalýðsfélögunum í Vestmannaeyjum í sameiningu.

Eftirfarandi grein er úr þessu fréttabréfi en auk þess eru birtar tillögur sjómannafélagsins Jötuns til sjómannasambandsþingsins. Tillögur þessar voru algerlega hundsaðar af þinginu.



Öryggismál sjómanna eru ofarlega á baugi þessi síðustu og verstu misseri. Öryggisbúnaður skips er fyrst og fremst í höndum löggjafarvaldsins og í öðru lagi eftirlitsmannanna, en þeim er þó þröngur stakkur skorinn, þar sem mjög vantar á að löggjafarvaldið fylgist með því sem er að gerast á mörkuðum, sem hafa með öryggistæki að gera. Í þriðja lagi er það sem að sjómönnum snýr, það er að ábyrgð þeirra og starfsþekkingu og þess vegna tel ég að taka verði upp nýja stefnu um verkmenntun sjómanna.

Það væri alls ekki úr vegi fyrir hina frumvarpsglöðu þingmenn, sem nú sitja á Alþingi að koma sér saman um frumvarp, sem kveði á um sjómannaskóla, þar sem mönnum er gefinn kostur á að afla sér undirstöðuþekkingar í störfum til sjós. Jafnframt væri gert ráð fyrir því að enginn fengi skipsrúm, án þess að hafa fengið leiðsögn í þannig skóla. En það vita allir, sem sjó stunda hversu starfskunnátta er stór liður í öryggismálum sjómannsins.

Löggjafinn verður einnig að taka af skarið og endurskoða lög og reglugerðir um öryggisbúnað um borð í íslenskum skipum og kom þeim úrelta búnaði; sem er um borð í of mörgum skipum, fyrir kattarnef og fá nýjan og fullkominn útbúnað í staðinn.

Fyrir nokkru fór fram könnun á gúmbjörgunarbátum á

framhald á síðu 2

LEIÐARI

# Alþýða Kampucheu mun sigra!

Linnulaust berast okkur fréttir þess efnis að herir Rauðu Khmeranna séu gersigraðir og að Pol Pot stjórnin sé fallin. Samt sem áður halda átökin áfram dag eftir dag og magnast fremur enn hitt. Sannleikurinn er sá að ósigursfréttirnar eru á víxl hugarburður einfaldra sálna eða áróðursbragð Hanoi stjórnarinnar Rauðu Khmerarnir halda baráttunni ótrauðir áfram þó þeir hafi vissulega þurft að hleypa óvininum langt inn í land sitt. Raunar táknar þetta undanhald Rauðu Khmeranna einnig endurvakningu skæruliðabaráttu og langvarandi alþýðustríð gegn víetnömum og leppstjórn þeirra. Með fyrri reynslu af slíku stríði í huga geta bæði víetnamar og herrar þeirra í Kreml fullvissað sig um að þeir munu ekki ríða feitum gelti frá þeirra viðskiftum.

En hvaða ástæður eru fyrir því að víetnamar réðust yfir landamæri Kampucheu fyrir tæpu ári og hafa æ síðan haldið uppi árásarstríði á hendur Rauðu Khmeranna? Vafalaust mætti telja upp margar ástæður en þær mikilvægustu eru útþenslustefna sósíalheimsvaldasinnanna í Kreml og draumur leppstjórnar þeirra í Hanoi um "Stóra Víetnam", þe. Laos, Kampucheu og Víetnam undir einni stjórn.

Hvað varðar útþenslustefnu sovésku heimsvaldasinnanna þá liggur það í augum uppi að þeir reyna hvarvetna að fylla upp í þau rúm sem losna er bandarísku heimsvaldasinnarnir hopa. Eftir hetjulegan sigur alþýðu Víetnam, Laos og Kampucheu yfir bandarísku heimsvaldasinnunum, tóku Sovétríkin að þrengja sér enn meir en áður inn í hin nýfrjálsu lönd. Með hjálp svikara í N-Víetnam hafði þeim tekist að ná undirtökunum þar og eftir frelsun S-Víetnam linntu þeir og leppar þeirra ekki látum unz landið var sameinað að nýju í miklum flýti. Stjórn Rauðu Khmeranna í Kampucheu skynjaði þá hættu sem nýfengnu sjálfstæði þeirra stafaði frá vinarhótum Kremlverja. Þess vegna kusu þeir að treysta fyrst og fremst á eigin krafta og þola engu öðru ríki afskipti af eigin málum. Slíka ósvífni gátu sovésku sósíalheimsvaldasinnarnir með engu móti þolað og lögðu því allt kapp á að endurvekja drauminn um "Stóra Víetnam". Árangurinn sjáum við nú í framkvæmd.

Eins og áður er á minnst hafa þessi átök milli Víetnam og Kampucheu staðið í tæpt ár. Það skyldi engan undra að þau næðu nýju hámarki nú, rétt eftir að Víetnamar gengu í Komekon og gerðu hernaðarsamning við Sovétríkin. Það er þó merkilegt hvað þeir eru fúsir að læra af fyrirrennurum sínum í árásarstríði gegn Kampucheu, því mánuði fyrir sóknina hrófluðu þeir saman svokallaðri "Einingarfylkingu til frelsunar Kampucheu". Leppstjórn sú sem víetnamar hafa nú stofnsett er úr þessari "einingarfylkingu". Aðferðin minnir óneitanlega á stjórn Lon Nols sem bandaríkjamenn stofnuðu í Kampuchiu. En það mun fara fyrir stjórn "einingarfylkingarinnar" á sama veg og fór fyrir Lon Nol stjórninni. Spurningin er aðeins hve langan tíma það mun taka.

Á vesturlöndum hafa fjölmiðlar auðvaldsins grátið krókódílstárum vegna nýjustu atburða í Kampucheu. Það er annars undarlegt að sjá harða stuðningsmenn Pentagon-haukanna hneykslast á framferði víetnama. Eitt er víst að hneykslun þessi stafar ekki af umhyggju fyrir sjálfstæði þjóða eða að hagur Pol Pot stjórnarinnar sé borinn fyrir brjósti. Það afsanna geðveikisleg skrif og furðusagnir um "gengdarlaust blóðbað og hömlulausa grimmd" Rauðu Khmeranna gagnvart löndum sínum. Á sama tíma kjósa þessir aðilar að útskýra ekki hvað valdi því að þessum svokölluðu "blóðhundum" tókst að brauðfæra fólkið sitt á sama tíma og hungursneyð ríkir í Víetnam. Nei, hneykslun þeirra er tilkomin vegna þess að nú eru það Kremlverjar en ekki Pentagon-haukarnir, sem reyna að troða sjálfstæði þjóðar undir járnhæl sínum. Hversu lengi þessi "hugarfarsbreyting" auðvaldspressunnar kann að standa eða hversu djúpt hún ristir mun ekki skipta sköpum um framvindu mála í Kampucheu. Í því máli mun alþýða Kampucheu hafa síðasta orðið eins og hún hefur áður sýnt fram á.

15/1 1979.

*Úr Fréttabréfi verkalýðsfélaganna í Vestmannaeyjum:*

# Öryggismál sjómanna

framhald af forsíðu

vegum sjóslysanefndar. Í þeirri könnun kom í ljós, að óæskilegt væri að gúmbjörgunarbátar yrðu eldri en 10-14 ára. Hvað skyldu margir gúmbjörgunarbátar vera eldri en 10-14 ára um borð í íslenska fiskiskipaflotanum? Ég tel það fullvíst að þónokkuð margir bátar í Vestmannaeyjum séu með eldri gúmbáta um borð en æskilegt er talið.

Um eldvarnir um borð í eldri skipum má segja að ríki algjört ófremdarástand, þar sitja menn uppi með slökkvitæki, sem löngu eru orðin úrelt og sum það léleg að varla væri hægt að slökkva á sígarettu með þeim.

Ekki má gleyma bjargbeltunum, það er ömurlegt til þess að vita, að þótt til séu belti af fullkomnustu gerð, þ.e.a.s. belti sem blásast út sjálfkrafa þegar þau koma í vatn, þá er fjöldinn allur af skipum með belti, sem við liggur að séu hættuleg mönnum að klæðast í. Ég tel að belti þau sem að framan greinir, ætti að lögleiða og skikka alla sjómenn til að klæðast þeim að staðaldri við vinnu á dekki og er mér sagt að sé gert nú þegar á nokkrum fiskiskipum. Þarna getur löggjafinn komið inn í dæmið. Þessi öryggistæki ættu að vera það ódýr, að hver einasti maður, sem gerir út skip eða bát, geti útbúið fleytu sína svo fyllsta öryggis sé gætt.

Margt fleira mætti nefna, s.s. útbúnað á veiðarfærum, t.d. að allir gilsar og snörlur og það sem þeim tilheyrir sé það vel útbúið, að ekki stafi hætta af þótt eitthvað fari úrskeiðis t.d. snögg veðrabreyting. Einnig má sérstaklega undirstrika ábyrgð sjómannanna sjálfra um að framfylgja í hvívetna öllum lögum og reglum um öryggi og aðbúnað um borð í íslenskum fiskiskipum.

Elías Bjarnason

### Tillögur Sjómannafélagsins Jötuns.

Fulltrúar Sjómannafélagsins Jötuns í Vestmannaeyjum lögðu fram eftirfarandi tillögur um öryggi og aðbúnað sjómanna, á 11. þingi Sjómannasambands Íslands, en það var haldið í Reykjavík í síðastliðnum mánuði. Því miður voru tillögur þessar að mestu hundsaðar á þinginu.

### Formáli

Sérhvert álit eða ályktun um öryggi og aðbúnað á sjó, sem samþykkt kann að verða á þingi Sjómannasambands Íslands, hlýtur að taka fremur mið af því, sem sjómenn vilja, en núverandi ástandi.

Eðlilegt er að skipta slíkri ályktun í þrjá hluta, sem þó eru samkvæmt eðli málsins samhangandi.

Í fyrsta lagi það, sem snýr að löggjafanum, í öðru lagi eftirlit og í þriðja lagi ábyrgð sjómannanna sjálfra og starfs kunnátta.

### Löggjafinn.

Aldrei verður lögð á það nóg áhersla, að ef ekki er staðið rétt og vel að lagasetningum um öryggismál sjómanna, þá er vonlaust að ætla sér að framkvæma nokkurn hlut af því, sem löggjafinn ætlast til að gert sé. Því samþykkir 11. þing Sjómannasambands Íslands að skora á Alþingi, að setja nú þegar mjög ströng lög um öryggisbúnað og hollustuhætti á íslenskum skipum.

### Eftirlit.

Að sjálfsögðu fer allt starf eftirlitsaðila eftir því hvern starfsvettvang löggjafinn ætlar honum.

Því samþykkir 11. þing Sjómannasambands Íslands, að Siglingamálastofnun ríkisins verði efld að mun og starfsmönnum hennar lögð sú kvöð á herðar, að hleypa ekki skipi á sjó sem ekki fullnægir ströngustu kröfum um öryggi og aðbúnað.

### Verkmenntun.

Möguleikar sjómanna til að gæta fyllsta öryggis í vinnu sinni hlýtur að takmarkast af tvennu, annarsvegar þeirri aðstöðu, sem þeim er búin og hinsvegar þeirri verkkunnáttu, sem þeir hafa aflað sér.

Samkvæmt því sem hér er sagt á undan, ætlast 11. þing Sjómannasambands Íslands til þess, við löggjafann og eftirlitsaðila að aðstaða og aðbúnaður séu svo góð, sem tök eru á. Hinsvegar verður að taka upp nýja og betri stefnu varðandi verkmenntun sjómanna.

Því skorar 11. þing Sjómannasambands Íslands á Alþingi, að setja lög um sjómannaskóla þar sem mönnum sé gefinn kostur á að afla sér undirstöðu kunnáttu í störfum til sjós. Jafnframt sé gert ráð fyrir því, að enginn geti fengið skipsrúm án þess að hafa fengið leiðsögn í þannig skóla.

Ennfremur vill 11. þing Sjómannasambands Íslands benda á ábyrgð sjómanna á því að framfylgja öllum lögum um öryggi og aðbúnað um borð í íslenskum skipum.

# Kauphækkun - en misrétti áfram

framhald af forsíðu

ið - vel að merkja ríkisvald auðstéttarinnar - sem ákveður að neita fólki um heilbrigðisþjónustu, frekar en að greiða hærri laun. Það er gegn þessu ríkisvaldi sem fólk á að beina reiði sinni ef verkfall á sjúkrahúsi kemur illa niður á því.

Starfsstúlkurnar hafa skýlaust siðferðislegan rétt á að fara í algjört verkfall og veita engar undanþágur. Hins vegar getur verið hárrétt bardagaaðferð að fara ekki í algjört verkfall heldur beita verkfalli og undanþágum með það fyrir augum að þjarma sem mest að atvinnurekanda en sem minnst að almenningi Á þessu er regin munur eða að fara alls ekki í verkfall eins og t.d. Sókn gerir. Það skiptir semsagt megin máli hvort undanþágurnar eru til þess að þjóna alþýðunni eða auðvaldinu.

Stéttabaráttan treystir sér ekki enn til þess að dæma nákvæmlega um á hvern hátt hefði átt að beita undanþágum á Akranesi. Aftur á móti teljum við að með meiri hörku og samstöðu utan að hefði tvímælalaust getað náðst meiri árangur.

En hvað um það, verkalýðsfélagið á Akranesi er það eina sem tekið hefur upp þessa baráttu og þótt ýmislegt hefði mátt betur fara er hér á ferðinni lofsvert framtak sem skapa mun fordæmi.

Stéttabaráttan mun síðar fjalla um lærdóma af verkfallinu og þátt verkalýðshreyfingarinnar í því.

**HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L**

Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar: sími 27810 og pósthólf 1357 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð, Lindargötu 15, opið mánud. - föstud. kl. 16:00 - 18:30.

HELLISSANDUR
Sigfús Almarsson
Hellisbraut 10.

HAFNARFJÖRÐUR
Fjóla Rögnvaldsdóttir
Reykjavíkurvegi 24.

HORNAFJÖRÐUR
Margrét Einarsdóttir
Silfurbraut 2

AKUREYRI
Jón Atli Játvarðsson
Skarðshlíð 30.

KEFLAVÍK
Einar Jónsson
Sólvallagötu 40c.

SVÍÞJÓÐ
Kristján L. Guðlaugsson
Kämnärsvägen 11 N:220
222 46 LUND

# Jesús - uppreisnarmaður og kommúnisti

**Dufþakur**

Þá er barnaárið gengið í garð - og því fer vel á því að fjalla lítillega um þá barna- og unglingabók, sem hvað mestum deilum olli af þeim bókum, er út komu fyrir jól. Hér er að sjálfsögðu átt við Félaga Jesús.

Prestar og prelátar hinna ýmsu trúflokka, ríkisstyrktra eða ekki, vandaðar íhaldsfrúr og snoppufríðir auðmannssynir, máttu vart vatni halda af vandlætingu vegna útkomu þessarar bókar og svo mjög gengu þessir fulltrúar trúarbragða og alþingis hart fram í því að fordæma bók þessa, að hún seldist upp á augabragði. Mikill er andskotinn, stendur einhvers staðar, og víst er um það, að sjaldan eða aldrei hefur myrkrahöfðinginn gengið svo langt í því að spilla þjóðarsálinni fyrst þetta ráðvanda fyrirfólk sá ástæðu til að vara við umræddri bók - sérstaklega þegar haft er í huga, að aldrei hefur heyrst hósti né stuna frá því sama fólki vegna alls þess ofbeldis, kláms og annars konar ósóma, sem úthellt er yfir þjóðina í formi kvikmynda og blaða.

En hver er þá hinn hroðalegi glæpur Svens Wernströms, höfundar Félaga Jesús? Við nánari athugun má gera ráð fyrir, að hann sé tvenns konar.

Í fyrsta lagi lýsir hann Jesús sem uppreisnarforingja, er stefnir að því að gera byltingu í Ísrael og steypa hinum rómversku kúgurum frá völdum í þeim tilgangi að skapa þjóðfélag, þar sem fátækt og kúgun er útrýmt. Sven fer heldur ekki í launkofa með það, að slíkt þjóðfélag hljóti að vera kommúniskt. "Jesús og félagar hans lifðu kommúnísku lífi. Engir voru ríkir og engir fátækir. Allir fengu jafnt." (bls. 42) Né heldur dregur Sven dul á það, að slík bylting hljóti að vera gerð með vopnum. Á einum stað segir Jesús; "Réttlæti verður ekki komið á með því að tala um frið. Bylting er gerð með sverðum." (bls. 44)

Í öðru lagi lýsir Sven Jesús sem mennskum manni, sem ekki er eingetinn eða hafi fæðst í þennan heim og horfið þaðan á einhvern dularfullan og óútskýranlegan hátt. Sven þessi gerist meira að segja svo djarfur að láta Jesús snúa baki við hugmyndum sínum um guð. "Hann hafði beðið eftir hjálp frá guðinum ósýnilega og englunum. Það var mesta heimskan. Hann hefði átt að geta séð það sjálfur að fátækt fólk fær aldrei hjálp að ofan." (bls. 71)

Það skal því engan undra, þó fulltrúar hins svartasta afturhalds stökkvi upp á nef sér, þegar hugmyndum þeirra um hinn algóða og yfirnáttúrulega Jesús er varpað fyrir róða, en sé þess í stað gerður að byltingarforingja og mennskum manni. Hugmynd Wernströms er þó hvorki frumleg né ný af nálinni. Hann segir söguna á einfaldan og skýran hátt, enda, eins og áður segir, er bók þessi fyrst og fremst ætluð börnum og unglingum til lestrar.

Í formála bókarinnar segir höfundurinn:

"Þar sem margir aðrir hafa tekið sér fyrir hendur að færa í letur frásagnir um smiðinn Jesú og hinn einkennilega feril hans frá friðsælu lífi í Nasaret að smánarlegum dauðadómi í Jerúsalem, þá réð ég það líka af, eftir að hafa rannsakað allt allkostgæflega, að rita um þetta til þess að börn vor verði fær um að ganga úr skugga um áreiðanleik þeirra frásagna sem enginn kemst undan að hljóta fræðslu í."

Ekki skal farið út í þá sálma hér að rannsaka, hvort meiri sannleikur sé fólginn í bók Wernströms en öðrum, sem ritaðar hafa verið um líf og starf Jesú Krists,, en eitt er víst - frásögn hans af starfi Jesús er trúverðugri og raunverulegri heldur en allar kraftaverka-og heilagsandasögur Biblíunnar, sem okkur eru innrættar á skyldunámsaldri.

# Stríðsleikir í Evrópu

Hersveitir eru æfðar í skyndiárásum, skriðdrekar eru á ferðinni um Vestur-Evrópu og flugskeytum er skotið á loft.

Sá sem hefur augun opin getur ekki annað en séð daglega merki um stríðsundirbúning risaveldanna, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna.

Liður í stríðsundirbúningi Sovétríkjanna er sú viðleitni þeirra að umkringja Kína með sér vinveittum ríkjum.

Í október og nóvember s.l. tóku amerískar hersveitir þátt í mestu heræfingum bandaríkjahers síðan í seinni heimsstyrjöldinni. Þessar æfingar hófust 8. október og lauk 10. nóvember. Markmið þeirra var að finna út hve fljótt varaher og þjóðvarðliðar gætu komist á vettvang.

Í Evrópu voru bandarískar hersveitir fluttar til norðurhluta Vestur-Þýzkalands en það hefur ekki gerst frá því í seinni heimsstyrjöld. Garlstedt herflugvöllur var opnaður rétt norðan við Bremen þann 17. október s.l.



Bandarískar heræfingar í Evrópu eru til marks um stríðsundirbúning risaveldanna.

Þessar miklu heræfingar bandaríkjahers innan landamæra annars ríkis eru til marks um styrjaldarundirbúning Bandaríkjanna. Þær eru svar bandarísku heimsvaldasinnanna við auknum hernaðarumsvifum sovésku heimsvaldasinnanna.

Í Mið-Evrópu, sem er miðdepill togstreitu risaveldanna um heimsyfirráð, eru tvær sovéskar hersveitir á móti hverri einni bandarískri. Einnig hafa sovétmenn fjórum sinnum fleiri skriðdreka. Nýlega hafa þeir einnig komið fyrir eldflaugum gagngert til árása á Vestur-Evrópu. Á móti þessu hafa bandaríkjamenn einnig gert áætlanir um að efla her sinn í Vestur-Evrópu.

# Þjóðernisminnihlutar í Sovétríkjunum

framhald af baksíðu

Mótmælaaðgerðirnar neyddu stjórnvöld til að falla frá áformum sínum.

Svipuð klásúla var hins vegar sett í stjórnarskrá Aserbaijan þrátt fyrir mikil mótmæli þar.

Mótmæli í Tajikstan.

22. maí tóku nær því 13.000 manns þátt í sjálfsprottnum aðgerðum í Dushanbe, höfuðborg lýðveldisins Tajikstan. Aðgerðirnar voru stöðvaðar mjög harðneskjulega af vopnuðum rússneskum hermönnum. Sextíu menn voru ...r, sumir alvarlega. Mót...li þessi kviknuðu þegar rússi réðist á barn frá Tajikstan.

"Þjóðflokkasamruni".

Það atriði í stefnu stjórnarinnar sem mótmælendur beina spjótum sínum helst að er hinn sk. "þjóðflokkasamruni"

"Þjóðflokkasamruni" hefur einkum þær afleiðingar fyrir hin ýmsu þjóðabrot Sovétríkjanna að menningarleg kúgun eykst og þeim er gert torveldara fyrir um notkun þjóðtungnanna. Minnihlutaþjóðir eru neyddar til að taka upp rússneska tungu og stundum til að flytja búferlum frá heimalandi sínu.

Brésneffsklíkan hylur þessar kúgunaraðgerðir sínar undir goðsögninni um mikilfengleika "rússnesku þjóðarinnar" nokkuð sem minnir á tal Hitlers um "aríana".

"Það hefur aldrei verið til mikilfenglegri þjóð en sú rússneska nokkurs staðar í heiminum," segir í einu opinberu plaggi.

Eftir valdatöku Krússjeffs og endurreisn borgarastéttarinnar í Sovétríkjunum hafa sovéskir leiðtogar gersamlega svikið sósíalísk grundvallaratriði sem lögð voru fram af frumkvöðlunum Lenín og Stalín.

Lenín varaði oft við rússneskum þjóðarhroka og yfirgangsstefnu. Hann sagði meðal annars:"Við verðum að eyða eins gersamlega og unnt er öllum merkjum stórrússneskrar þjóðrembu." En stefna núverandi stjórnvalda er einmitt að efla stórrússneska þjóðrembu.



## Rauðar Örvar

Hafið þið heyrt hann þennan: ... Nei annars, hann er of grófur svona í fyrstu umferð. Þið fáið bara að heyra hann í næsta blaði.

Ritnefnd gerir hér tilraun til að bjarga við húmornum í blaðinu og hleypir af stokkunum brandaradálknum Rauðar örvar

Skrýtla frá Prag:

ÞEGAR LENÍN VAR VAKINN FRÁ DAUÐUM

Þessi saga er frá Prag og er hún til marks um afstöðu Tékka til sovéska innrásarhersins og eðlis Sovétríkjanna

Rússneskur vísindamaður uppgötvaði nýlega aðferð til að lífga fólk frá dauðum. Miðstjórn kommúnistaflokksins komst í málið og eftir langa fundarsetu og miklar umræður ákvað hún að nota aðferðina og vekja Lenín. Þeim fannst enda að ekki dygði minna til en hann til að ráða fram úr vandamálum ríkisins.

Lenín fékk íbúð og aðstöðu til að rannsaka málin og upplýsingar allt frá árinu 1924.

Eftir þrotlaust starf í nokkra daga bað Lenín um aðstoðarmann.

Miðstjórnin fékk að vita að hann vildi helst kveðja til konu sína, Krupskaju, og var leyfið veitt.

Enn leið og beið. Starf Leníns hélt áfram.

En dag einn þegar Krupskaja kom heim var Lenín horfinn.

Hann var þar hvergi en hafði skilið eftir miða:

Krupskaja.

Þetta er miklu verra en ég hélt. Verðum að fara landflótta til Sviss strax.

SPÁMANNSORÐ KEISARANS

Richard Milhaus Nixon forseti spurði eitt sinn Íranskeisara hvað hann ætlaði að gera ef fólkið í landi hans gerði uppreisn.

"Konungur konunganna" svaraði honum óðamála: "það skalt þú vita herra forseti, að mitt fólk elskar mig. Það mun aldrei gera uppreisn gegn mér því ég hef gefið því svo mikið". Og litlu síðar bætti hann við: "Þar fyrir utan, gleymið ekki að ég hef til varnar krúnu minni öll vopnin sem ég keypti af ykkur".

AFRIQUE-ASIE 25/12 1978.

Þessi fyrirsögn var á forsíðu Þjóðviljans 13. janúar s.l.

**Reynt að skerða kjörin**

*án þess að tala við verkalýðsfélagið*

Starfsmannafélagið Sókn tilkynnir

Hvílík ósvífni, að hafa ekki samráð við verkalýðsforystuna um kjaraskerðinguna...

Á ráðstefnu austantjaldsríkja: Brésneff við Kosygin:

Félagi, sástu úrið sem de Gaulle gaf Ceausescu?

Kosygin: Nei, lof mér að sjá það.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

**Stéttabaráttan**

Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
3. tbl. 8. árg. 16.1.1979



STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður
Ingi Andrésson.



# Þjóðernisminnihlutar í Sovétríkjunum berjast gegn kúgun





Þjóðernisminnihlutar í Sovétríkjunum, svo sem Kirgisar (efri myndin), eru meðhöndlaðir með "kynþáttasamruna"stefnunni. Þjóðernisleg kúgun hefur neytt sumt fólk til að sjá sér farborða með betli. (til hægri).

"Í Sovétríkjunum hafa öll vandamál þjóðernisminnihlutanna verið leyst," gortaði Leoníd Brésneff í nýlegri yfirlýsingu. Hann hélt áfram með því að lýsa Sovétríkjunum sem "paradís" þar sem allar þjóðir og þjóðabrot lifðu við fullkomið jafnrétti.
Hin mörgu dæmi um hið gagnstæða vitna hins vegar um stórrússneska þjóðrembu og þjóðerniskúgun eins og sagt verður frá í greininni.

Raunverulegt líf þjóðernisminnihlutafólks segir allt aðra sögu en yfirlýsing Brésneffs. Sovétríkin eru ekki frekar "paradís" en fátækrahverfi hinna kapítalísku vesturlanda. Þvert á móti hafa nýlega orðið hræringar og aðgerðir þjóðernisminnihlutafólks gegn stórrússneskri yfirgangsstefnu og kúgun ríkisstjórnar Brésneffs.

Undirstjórn hinna nýju tsara í Kreml hefur einmitt verið leitast við að endurreisa herraveldi rússa en sú þjóð var einmitt herraþjóð rússneska keisaradæmisins.

### Mótmæli Krímtatara.

Mjög nýlega hafa 6000 Krímtatarar, sem flestir búa í Usbekistan, hafið á loft kröfuna um jafnrétti þjóðanna innan Sovétríkjanna. Þeir sendu tvær orðsendingar til sovéskra yfirvalda þar sem krafist var að þeim yrði leyft að flytja aftur til fyrri heimkynna sinna á Krímskaganum. Svar ríkisstjórnarinnar í "paradís" var að herða á kúguninni og refsa foringjum hreyfingar tataranna

Nokkru áður eða í júní sl. hafði Krímtatari brennt sig til bana í mótmælaskyni við þjóðerniskúgun stjórnarinnar. Átta hundruð samlandar hans héldu minningarfund sem snerist upp í mótmælaaðgerðir gegn þjóðerniskúguninni.

### Mótmæli í Asbekistan.

Á sjálfstjórnarsvæðinu Asbekistan í Georgíu hafa orðið mikil og tíð mótmæli síðustu mánuði gegn stefnu sovésku stjórnarinnar um "kynþáttasamruna". Þessar aðgerðir urðu mjög miklar í mars sl. þegar tugir þúsunda fóru í mótmælagöngu í öllum helstu borgum Georgíu. Í borginni Likhni einni saman urðu mótmælendur um 12.000.

Þann 21. maí mótmæltu yfir 30.000 asbekistar í Sakhumi. Nokkrum dögum síðar voru hersveitir stjórnarinnar sendar þangað og leystu upp alla mótmælahópa.

### Mótmæli í Tíflis í Georgíu.

Í borginni Tíflis í Georgíu 14. apríl sl. tóku um 50.000 manns þátt í mótmælaaðgerðum gegn áætlun um að draga úr notkun og kennslu tungumáls þeirra. Þeir mótmæltu klásúlu í drögum að nýrri stjórnarskrá sem hefði valdið því að mál georgíumanna hefði fallið niður sem opinbert mál.

framhald á síðu 3

# Hörð barátta í Kampuchea

Samkvæmt nýjustu fréttum frá Kampuchea geysa nú harðir bardagar sunnan til í landinu. Herir stjórnar Pol Pots, sem er hin eina löglega stjórn landsins, hafa þannig nú þegar hafið skipulagða sókn gegn víetnömsku innrásarseggjunum og leppum þeirra. Þetta gerist þvert á spár margra sk. vestrænna fréttaskýrenda, sem spáðu flótta hersins til Tælands.




Myndin sýnir fjórar aðal árásarstefnur víetnama inn í Kampuchea.

Her stjórnar Pol Pots hefur enn stóran hluta landsins á valdi sínu og er að búa um sig þar. Allt bendir til þess að hann sé ekki aðeins búinn til skæruliðabaráttu heldur líka til beinnar sóknar gegn víetnamska hernum.

Samkvæmt fréttum eru bardagar aðallega sunnarlega í Kampuchea. Fregnir voru um sjóorustu við eyju út af strönd landsins og bardaga um borgina Kompong Som (sjá kort). Sagt er í sömu fréttum að flugvélar víetnamshers hafi gert loftárásir á borgina en hún er mikilvægasta hafnarborg landsins. Það er því alveg ljóst að stríðinu í Kampuchea er ekki að ljúka og víst er að baráttan er hörð.

Kampucheanska þjóðin barðist undan oki bandarísku heimsvaldastefnunnar, ekki til að lenda í klóm hins risaveldisins heldur til að stofna sjálfstætt ríki. Þess vegna mun sjálfstæðisbarátta kampucheamanna halda áfram.

### Sovétríkin.

Að baki herja Víetmans grillir í grumulausa heimsvaldastefnu Sovétríkjanna. Víetnam hefur gengið í Comecon, efnahagsbandalag Austur-Evrópuríkja, bandalag sem rússar nota til að gera aðrar þjóðir sér háðar efnahagslega. Auk þess gerðu rússar og víetnamar sér samning um varnir landanna.

Sovéskir hernaðarráðgjafar og skv. sumum fréttum hermenn, auk ógrynna sovéskra vopna voru notuð í innrás víetnama í Kampuchea.

Víetnamar og sovétmenn hafa ekki viljað viðurkenna aðild sína að innrásinni en hafa samt gert það í raun. Víetnamar hafa mikið talað um það hve Pol Pot stjórnin hafi verið vond og þess vegna hafi aðgerðirnar verið réttlætanlegar.

Raunveruleikinn bendir þó óhikað til annars. Hin sk. frelsishreyfing Kampuchea var stofnuð í desember sl. í Víetnam. Það er þannig óhugsandi að þessi hreyfing hafi orðið nógu sterk á tæpum mánuði til að geta á eigin spýtur ráðist inn í Kampuchea.

Þetta ásamt beitingu sovétmanna á neitunarvaldinu í Öryggisráðinu sýnir svart á hvítu hverjir eigast þarna við í raun og veru.

Sovétmenn eru að breiða út áhrifasvæði sitt í Suðaustur-Asíu til að standa betur að vígi í styrjaldarundirbúningi sínum. Sovétmenn eru einnig að stefna að umkringja Kína. Það er eins víst og að dagur kemur á morgun að sovéska heimsvaldastefnan mun ekki láta staðar numið í Kampuchea. Hún mun halda lengra áfram til að leggja Asíu undir yfirráð sín.

Þess vegna er barátta kampucheamanna ekki aðeins barátta þjóðar fyrir þjóðlegu sjálfstæði heldur og liður í baráttu allra þjóða gegn heimsvaldaáformum og stríðsundirbúningi risaveldanna tveggja, Sovétríkjanna og Bandaríkjanna.

Sérhver sem vill í raun styðja frið í heiminum hlýtur því að styðja baráttu Kampuchea og fordæma íhlutun og innrás víetnama og sovétmanna.